„det ham i lang Tid så kære Sprogs Studium," at udgive netop samme År han døde, endog kun kort i Forvejen. Dog have vi ej sluttet os anderledes til disse Arbejder, end at ny Forskninger ere forsøgte.

Der er ikke tilföjet nogen dansk eller latinsk Oversættelse, skönt man plejer at göre det. Vistnok måtte vi passe, da vi selv bekoste Bogen, at den ej blev större, end höjst fornødent var; men dette Hensyn skulde dog ikke have forårsaget Udeladelse af Oversættelsen, dersom vi havde anset den for nødvendig. Det er så langt fra, at vi tro det, at vi endog antage, at man ved endnu bestandig at vedblive dermed snarere skader end gavner Sagastudiet; en anden Sag var det, da man først begyndte at udgive Sagaer, da behøvedes naturligvis Oversættelser. — Hensigtsmæssigere havde et Ordregister været; ti ved enhver Saga kan det siges at være Tilfælde, at den indeholder noget ejendommeligt, som trænger til at oplyses. Når vi alligevel have ladet det blive borte, da er det skjet med Forsæt; vi tro nemlig, at man nu altid burde göre det, for at Trangen til en god og fuldstændig oldnordisk Ordbog endnu mer kan blive følelig. — Kapittelinddelingen have vi ikke medtaget, da den i Håndskrifterne af vor Saga, som vel ellers i de fleste Tilfælde, var usikker og vilkårlig, ligesom den også i og for sig synes os at vansire, — man

kan også lettere efterse det, der er anført efter Sidetallet, end det, der er anført efter Kapitler; men vi have derfor ej undladt at göre Ophold og angive de naturlige Hvilepunkter. På en stræng og konsekvent Interpunksion have vi beflittet os, og desuden søgt ved alle små Midler, der kunde anvendes, at befordre Tydelighed og göre Læsningen bekvem og sikker.

Nogle Trykfejl ere desværre blevne stående, og ligeledes adskilligt desuden, der skulde have været forandret; begge Dele anføres her under ét for at kunne rettes og bemærkes, inden Bogen bruges.

Nævneformerne af 1. og 2. personlige Stedord i Totallet burde overalt hedde **vit**, **þit** (ikke við, þið).

Gjerningsordenes Flertalsendelser: **m** i 1. Person og **t** (**ð**) i 2. Person skulde overalt have været beholdte.

Forholdsordene bör overalt skilles fra de Gjerningsord, hvortil de høre, når de sættes efter disse i den fremsættende Nutid; altså **af skipta** (S. 13, Lin. 24), **við tekit** (S. 20, Lin. 8), **at borizt** (S. 26, Lin. 20).

Det, der i det enkelte er at rette, er følgende:

S. 4, Lin. 7: laggði læs lagði
— 5 — 1: Det sidste ok udelades
— „ — 2: þreyngði læs þröngði
— „ — 10: udelades yfirferðar
— „ — 13: fjöll læs fell
— 6 — 26: en læs enn
— 7 — 13: kvedst læs kveðst
— „ — „ hvart læs hvárt
— 9 — 1: skjör læs skjörr
— 10 — 17: mun læs man
— 11 — 6: heilsudu læs heilsnðu
— 12 — 22: gera læs gjöra
— 13 — 10: gerðar læs gjörðar
— „ — 19: Til af skulde have været sat den Anmærkning: Þann veg handritin öll.
— 15 — 3: augum, læs augum;
— 16 — 2: kyrt læs kyrrt
— 18 — 18: hinu læs hinum
— 19 — 8: Garðskonunginum læs garðskonunginum
— „ — 19: Þordísi læs Þórdísi
— 20 — 14: eigi læs ekki
— 21 — 6: rasa læs hrasa
— „ — 24: eigi læs ekki
— 22 — 10: ósárari læs úsárari
— „ — 11: sjálfr læs sjálfan.
— 23 — 15: svá, læs svá —
— „ — 20: hefir læs "hefir

S. 25 Lin. 18: setti læs sótti
— 27 — 4: hlæjandi læs hlæjandi
— „ — 20: ægishjálm skulde måskje snarere være œgishjálm
— 30 — 3: Hrafnkell, læs Hrafnkell!
— 31 — 5: vestan læs austan. Hertil skulde have været den Anmærkning: vestan handritin öll.
— „ — 22: Til austr skulde have været den Anmærkning: vestr handritin öll.
— „ — 11: uppreisn læs uppreist
— 32 — 7: reisiligan læs reisnligan
— 36 — 10: Sámr læs Sáms
— 37 — 8: erfidi læs erfiði
— 38 — 19: ordit læs orðit
— 45 — 14, 15: skulde ikke stå z, men det Slags r, der ligner 2.
— 46 — 2: ha(n)s læs h(an)s
— 53 — 26: 21) læs (21

Det har bestandig været vor Agt, at Fortalen osv. skulde skrives i Sagaens Sprog, der også i Anmærkningerne under Teksten er blevet anvendt; først til allersidst have vi bestemt os til, som her er skjet, at lade den fremtræde på Dansk, — men ej uden en vis Smærte. Vistnok vilde vi fornæmmelig udgive en Saga for at yde en Skærv til at formindske de utryktes Antal, for at give Island en

af dets Sagaer tilbage, og for at indføre en Prøve af voro Studier for den lærde Verdens Domstol; dog vilde vi også gjerne give et Bidrag til at henlede Opmærksomheden noget mer på den forsömte gamle nordiske Litteratur. For i den Henseende ej at spærre sig Vejen, var det nødvendigt, at Fortalen blev på Dansk; var alt i Sagasproget, vilde det hedde derom, som fordum, „græca sunt, non leguntur." Ti det er langtfra, at nogen almindelig Interesse for denne Litteratur findes i Danmark, og i de to andre nordiske Riger står det sig sikkert ikke bedre. Er den dog overmåde både rig og skön, og uden Tvivl også betydningsfuld for disse Lande; — er den dog så kjendt og agtet ej blot i Tyskland, men også i England, Frankerig osv., at ingen anden skandinavisk Litteraturgren er det nær i den Grad!

Med Hensyn til fatalia libri må det endnu bemærkes, at ikke blot Arbejdet er besörget for temmelig længe siden, men at endog Sagaen på lidet nær (Fortalen og Aftrykket af Pergamentsbladet ej medregnede) var trykt allerede ifjor; Opsættelsen har for största Delen sin Grund i tilfældige Omstændigheder. Arbejdet blev begyndt og udført i den Tid, vi boede sammen på det borkske Collegium mediceum. Fælles videnskabelig Stræben førte os til hinanden, og da den ene af os er født Islænder, den anden Dansk, trængte vi meget til hinanden,

havde vi meget at lære hinanden for at komme nogenlunde til Fasthed og omstændelig Indsigt i nordisk Lingvistik og Historie. Derved førtes vi næsten uvilkårlig til at levere dette fælles Arbejde. Desårsag vil det, hvordan end Dommen om det måtte blive, altid i Erindringen i höj Grad have Værd for os som et Minde om hin Tids i Forening drevne Studier; endog adskillige af vore bedste Venner ville, derom ere vi overbeviste, ved denne lille Bog med Glæde erindre sig den Tid, de på hint Sted have tilbragt hos os med Tanke og Tale henvendt på det, der var Målet for vore litterære Bestræbelser, som også lå dem på Hjærte, og ihukomme den Bestyrkelse, de derved have vundet i denne Interesse. Jo ædlere Minderne ere, desto mer leve Venner for hverandre, når de ej længer kunne være iblandt hverandre.

Vi slutte disse Forord til Læserne med det Önske, at vort Arbejde ej må være det berömte, i det mindste i Norden uforgængelige Navn, vi have tilladt os at sætte foran, uværdigt, så meget mer som, såvidt vi vide, ingen hos os tidligere på denne Måde — efter Mandens Død — har udtalt sin Erkjendtlighed og Ærbødighed for dette Navn, — og i det Håb, at dette Arbejde vil være et Vidnesbyrd om, hvor gjerne vi ville virke i denne Retning, hvor meget den hæderlige Stiftelse, vi begge nylig ere

komne til at stå i et nærmere bestemt Forhold til, ligger os på Hjærte, og hvor meget vi önske, at den så mærkværdige og vigtige gamle nordiske Litteratur kraftig og herlig må fremstå i sin hele Rigdom, Fylde og Skönhed.

København, den 22. Desember 1839.

---

## TIL ÍSLENDINGA.

Tvennt er þat einkum, at afsökunar þykkir þurfa í þessi hinni litlu bók — mergð þess, er misprentað þykkir, ok þat annat, er formálinn er skráðr á dönsku, þar sem flestir kaupendr bókarinnar munu þó verða íslenzkir. Urðnm vit í þeim hlut at hyggja fyrir þeirra þörf, her í Danmörku ok víðar um Norðrlönd, er leggja stund á íslenzka tungu, en skammt eru á veg komnir. Má ok vera, at nökkurir bætist við í tölu þeirra fyrir sakir formálans; ok munu þeir seint verða of margir, er kynna ser bókmentir Íslendinga. Fyrir þá sök höfum vit ok látið okkr all-annt um, at saga þessi yrði sem skapfeldligust at öllu útliti, ok þó einkum í því, er fæstum þykkir

máli skipta, sem er sjálfr ritshátturinn. Verðr eigi frá skírt í fám orðum, hve mjök þat stendr íslenzkri tungu fyrir þrifum, er hver orðmynd breytir sífeldliga útliti sínu, þótt eingi nauðsyn beri til. Sakir þess vildum vit fœra allt til eins ritsháttar. Nú þó at þat hafi tekizt miðr enn skyldi, þótti okkr með eingu móti hlýða, at draga fjöðr yfir vangeymslu okkra, ok höfum vit fœrt í lag allt þat, er leiðretta þurfti, ok komit varð auga á. Er þat til fœrt í formálanum her at framan.

Ritað í Kaupmannahöfn atfangadag jóla 1839.

Þat var á dögum Haralds konungs hins hárfagra, Hálfdánarsonar hins svarta, Guðröðarsonar veiðikonungs, Hálfdánarsonar hins milda ok hins matarilla, Eysteinssonar frets, Ólafssonar tretelgju, Svíakonungs — at sá maðr kom skipi sínu til Íslands, í Breiðdal, er Hallfreðr het. Þat er fyrir neðan Fljótsdalsherað. Þar var á skipi kona hans ok sonur, er Hrafnkell het. Hann var þá fimmtán vetra gamall, mannvænn ok gjörviligr. Hallfreðr setti bú saman. Um vetrinn andaðist útlend ambátt, er Arnþrúðr het; ok því heitir þat síðan á Arnþrúðarstöðum. En um várit færði Hallfreðr bú sitt norðr yfir heiði, ok gjörði bú þar sem heitir í Geitdal. Ok eina nátt dreymdi hann, at maðr kom at hánum, ok mælti: „Þar liggr þú „Hallfreðr, ok heldr úvarligr. Fær þú á braut bú „þitt, ok vestr yfir Lagarfljót. Er þar heill þín öll.“

Eptir þat vaknar hann, ok fœrir bú sitt út yfir Rangá, í Tungu, þar sem heitir á Hallfreðarstöðum, ok bjó þar til elli. En hánum varð þar eptir ein geit ok hafr. Ok hinn sama dag, er Hallfreðr var á braut: hljóp skriða á bœinn, ok týndust þar þessir gripir; ok því heitir þat síðan í Geitdal.

Hrafnkell laggði þat í vanda sinn at ríða yfir á heiðar á sumrum. Þá var Jökulsdalr albyggðr upp at brúnni. Hrafnkell reið upp eptir Fljótsdalsheraði, ok sá, hvar eyðidalr gekk upp af Jökulsdal. Sá dalr sýndist Hrafnkeli byggiligri, enn aðrir dalir, þeir sem hann hafði áðr set. En er Hrafnkell kom heim: beiddi hann föður sinn fjárskiptis, ok sagðist hann vilja reisa bústað. Þetta veitir faðir hans hánum. Gjörir hann þá bœ í dal þeim, ok kallar á Aðalbóli. Hrafnkell fekk Oddbjargar, dóttur Skjaldúlfs, ur Laxárdal. Þau áttu tvá sonu. Het hinn eldri Þórir, en hinn yngri Ásbjörn. En þá er Hrafnkell hafði land numit at Aðalbóli, þá efldi hann blót mikit. Hrafnkell let gjöra hof mikit. Hrafnkell elskaði eigi annat goð meir enn Frey, ok hánum gaf hann alla hina beztu gripi sína hálfa við sik. Hrafnkell byggði allan dalinn, ok gaf mönnum lönd, en vildi þó vera yfirmaðr þeirra, ok tók goðorð yfir þeim. Við þetta var lengt nafn hans,

ok kallaðr freysgoði. Hann var ok újafnadarmaðr mikill, en menntr vel. Hann þreyngði undir sik Jökulsdalsmönnum til þingmanna. Hrafnkell var linr ok blíðr við sína menn, en stríðr ok stirðlyndr við Jökulsdalsmenn; ok fengu menn af hánum eingan jafnað. Hrafnkell stóð mjök í einvígum, ok bætti eingan mann fe; því at eingi maðr fekk af hánum neinar bætr, hvat sem hann gjörði. Fljótsdalsherað er yfirferðarillt: grýtt mjök ok blautt yfirferðar; en þó riðu þeir feðgar jafnan hvárir til annarra, því at gott var í frændsemi þeirra. Hallfreði þótti sú leið torsótt, ok leitaði ser leiðar fyrir ofan fjöll þau, er standa í Fljótsdalsheraði; fekk hann þar þurrari leið ok lengri, ok heitir þar Hallfreðargata. Þessa leið fara þeir einir, er kunnigastir eru um Fljótsdalsherað.

Bjarni het maðr, er bjó á þeim bœ, er at Laugarhúsum heitir. Þat er í Hrafnkelsdal. Hann var kvángaðr, ok átti tvá sonu við konu sinni, ok het annarr Sámr, en annarr Eyvindr — vænir menn ok efniligir. Eyvindr var heima með föður sínum; en Sámr var kvángaðr, ok bjó í norðanverðum dalnum á þeim bœ, er heitir á Leikskálum, ok átti hann mart fe. Sámr var uppivöðslumaðr mikill ok lögkœnn; en Eyvindr gjörðist

farmaðr, ok fór utan til Noregs, ok var þar um vetrinn. Þaðan fór hann út í lönd, ok nam staðar í Miklagarði, ok fekk þar góðar virðingar af Grikkjakonungi, ok var þar um hríð.

Hrafnkell átti þann grip í eigu sinni, er hánum þótti betri enn annarr. Þat var hestr brúnmóálóttr at lit, er hann kallaði Freyfaxa. Hann gaf Frey, vin sínum, þann hest hálfan. Á þessum hesti hafði hann svá mikla elsku, at hann strengði þess heit, at hann skyldi þeim manni at bana verða, er hánum riði án hans vilja.

Þorbjörn het maðr. Hann var bróðir Bjarna, ok bjó á þeim bœ í Hrafnkelsdal, er at Hóli heitir, gegnt Aðalbóli fyrir austan. Þorbjörn átti fe lítið, en úmegð mikla. Sonur hans het Einarr, hinn elzti. Hann var mikill ok vel mannaðr. Þat var á einu vári, at Þorbjörn mælti til Einars, at hann myndi leita ser vistar nökkurrar; „Því at ek þarf eigi meira forvirki, enn þetta lið orkar, er her er; en þer man „verða gott til vistar, því at þú ert mannaðr vel. „Eigi veldr ástleysi þessarri burtkvaðningu við „þik; því þú ert mer þarfastr barna minna; „meir veldr því efnaleysi mitt ok fátœkt, en önnur „börn mín gjörast verkmenn; man þer verða betra „til vistar, en þeim.“ Einarr svarar: „Of síð hefir

„þú sagt mer til þessa; því at nú hafa allir ráðit „ser vistir þær, er beztar eru; en mer þykkir þó „íllt at hafa af urvöl ein.“ Tók Einarr nú hest sinn, ok reið á Aðalból. Hrafnkell sat í stofu. Hann heilsar hánum vel ok glaðliga. Einarr leitar til vistar við Hrafnkel. Hann svarar: „Hví „leitar þú þessa svá síð? Því at ek myndi fyrr „við þer tekit hafa. En nú hefi ek ráðit öllum „hjónum mínum, nema til þeirrar einnar iðju, er þú „mant eigi hafa vilja.“ Einarr spurði, hver sú væri. Hrafnkell kvaðst eigi mann hafa ráðit til smalaferðar, en lezt mikils við þurfa. Einarr kvedst eigi hirða, hvat hann ynni, hvart sem þat væri eðr annat; en lezt tveggja missera bjargarvist hafa vilja. „Ek gjöri þer skjótan kost,“ segir Hrafnkell. „Þú skalt reka heim fimmtigi ásauð„ar í seli, ok viða heim öllum sumarviði. „Þetta skaltu vinna til tveggja missera vistar. „En þó vil ek skilja á við þik einn hlut, sem „aðra smalamenn mína. Freyfaxi gengr í dalnum „fram með liði sínu. Hánum skaltu umsjá veita „vetr ok sumar. En varnað býð ek þer á einum „hlut: ek vil, at þú komir aldreigi á bak hánum, „hversu mikil nauðsyn sem þer er á; því at ek hefi „her allmikit um mælt, at þeim manni skyldi ek „at bana verða, er hánum riði. Hánum fylgja

„tólf hross. Hvert sem þú vilt hafa þer til þarfa „af þeim, á nátt eðr degi, skulu þau þer til reiðu. „Gjör nu sem ek mæli fyrir; því at þat er forn „orðskviðr, at „eigi veldr sá, er varar annan“. „Nú veiztu, hvat ek hefi um mælt.“ Einarr kvað ser eigi mundu svá um gefit at ríða þeim hesti, er hánum var bannat, ef þó væri hross önnur til reiðar.

Einarr ferr nú heim eptir klæðum sínum, ok flytr heim á Aðalból. Síðan var fært í sel fram á Hrafnkelsdal, þar sem heitir at Grjótteigsseli. Einari ferr allvel at um sumarit, svá at aldreigi verðr sauðvant allt til miðsumars; en þá varð vant nær þrjátigi ásauðar eina nátt. Leitar Einarr um alla haga, ok finnr eigi. Hánum var vant fjárins nær viku. Þat var einu morgin, at Einarr gekk út snimma, ok er þá birt af allri sunnanþokunni ok úðinni. Hann tekr staf í hönd ser, beizl ok þófa. Gengr hann þá fram yfir Grjótteigsá. Hon fellr fyrir framan selit. En þar á eyrunum lá fe þat, er heima hafði verit um kveldit. Hann stökkti því heim at selinu, en ferr at leita hins, er vant var áðr. Hann ser nú stóðhrossin fram á eyrunum, ok hugsar at höndla ser hross nökkurt til reiðar, ok þóttist vita, at hann myndi fljótara yfir bera, ef hann riði, enn gengi. Ok er hann kom til hrossanna, þá elti hann þau, ok váru þau nú

skjör*), er aldreigi váru vön at ganga undan manni, nema Freyfaxi einn. Hann var svá kyrr, sem hann væri grafinn niðr. Einarr veit, at líðr morgininn, ok hyggr, at Hrafnkell myndi eigi vità, þótt hann riði hestinum. Nú tekr hann hestinn, ok slær við beizli, lætr þófa á bak hestinum undir sik, ok ríðr upp hjá Grjótárgili, svá upp til jökla, ok vestr með jöklinum, þar sem Jökulsá fellr undir, svá ofan með ánni til Reykjasels. Hann spurði alla sauðamenn at seljum, ef nökkurr hefði set þetta fe, ok kvaðst eingi set hafa. Einarr reið Freyfaxa allt frá eldingu ok til miðs aptans. Hestrinn bar hann skjótt yfir, ok víða; því at hann var góðr af ser. Einari kom þá í hug, at hánum myndi mál heim at reka þat fe fyrst, er heima var, þótt hann fyndi hitt eigi. Reið hann þá austr yfir hálsa í Hrafnkelsdal. En er hann kemr ofan at Grjótteigi, heyrir hann sauðajarm fram með gilinu, þangat, sem hann hafði fram um riðit áðr. Snýr hann þangat til, ok ser renna á móti ser þrjátigi ásauðar, þat sama, sem vantat hafði áðr viku, ok stökkti hann því heim með fenu. Hestrinn var vátr allr af sveita, svá at draup ur hverju hári, hann var mjök leirstokkinn ok móðr

*) Getgáta. Handritin: skiær, skjótust, stigg, o. s. fr.

ákafliga. Hann veltist um tólf sinnum, ok eptir þat setr hann upp gnegg mikit. Síðan tekr hann á mikilli rás ofan eptir götunum. Einarr snýr eptir hánum, ok vill komast fyrir hestinn, ok vildi höndla hann, ok fœra hann aptr til hrossanna. En hann var þá svá styggr, at Einarr komst hvergi í nánd hánum. Hestrinn hleypr ofan eptir dalnum, ok nemr eigi staðar, fyrr enn hann kemr heim á Aðalból. Þá sat Hrafnkell yfir borðum. Ok er hestrinn kemr fyrir dyr, þá gneggjar hann hátt. Hrafnkell mælti við eina konu, þá er inni þjónaði fyrir borðum, at hon skyldi fara til dyranna, „Því at hross gneggjaði, „ok þótti mer líkt vera gneggi Freyfaxa.“ Hon gengr fram í dyrnar, ok ser Freyfaxa mjök úkræsiligan. Hon segir Hrafnkeli, at Freyfaxi var fyrir dyrum úti — mjök úþokkaligr. „Hvat mun „garprinn vilja, er hann er heim kominn?“ segir Hrafnkell; „eigi man þat góðu gegna.“ Síðan gekk hann út, ok ser Freyfaxa, ok mælti við hann: „Illa þykkir mer, at þú ert þann veg til gjörr, „fóstri minn! en heima hafðir þú vit þitt, er þú „sagðir mer til; ok skal þessa hefnt verða; ok „far þú til liðs þíns.“ En hann gekk þegar upp eptir dalnum til stóðs síns. Hrafnkell ferr í rekkju sína um kveldit, ok sefr af náttina. En um morg-

inum let hann taka ser hest ok leggja á söðul, ok ríðr upp til sels. Hann ríðr í blám klæðum, öxi hafði hann í hendi, enn eigi fleira vápna. Þá hafði Einarr nýrekit fe í kvíar. Hann lá á kvíagarðinum, ok taldi fe; en konur váru at mjólka. Þau heilsudu hánum. Hann spurði, hversu þeim fœri at? Einarr svarar: „Illa hefir mer at farit; „því at vant var þrjátigi ásanðar nær viku, en „nú er fundinn.“ Hrafnkell kvaðst eigi at slíku telja; „Eðr hefir eigi verr at farit? hefir þat „eigi svá opt til borit, sem ván hefir at verit, at „fjárins hefir verit vant; en hefir þú eigi nökkut „riðit Freyfaxa hinn fyrra dag?“ Einar kvaðst eigi þræta mega alls um þat. „Fyrir hví reittu „þessu hrossi, er þer var bannat, þar er hin váru „nóg til, er þer váru heimiluð? Þar myndi ek „hafa gefit þer upp eina sök þá, hefði ek eigi „svá mikit um mælt. En þó hefir þú vel við „gengit.“ En við þann átrúnað, at eigi verði at þeim mönnum, er heitstrengingar fella á sik, þá hljóp hann af baki til hans, ok hjó hann banahögg. Eptir þat ríðr hann heim við svá búit á Aðalból, ok segir þessi tíðindi. Síðan let hann fara annan mann til smala í selit. En hann let fœra Einar vestr á hjallann frá selinu, ok reisti

þar vörðu hjá dysiuni. Þetta er kölluð Einarsvarða, ok er þar haldinn miðr aptann frá selinu.

Þorbjörn spyrr yfir á Hól víg Einars sonar síns. Hann kunni illa tiðindum þessum. Nú tekr hann hest sinn, ok ríðr yfir á Aðalból, ok biðr Hrafnkel bóta fyrir víg sonar síns. Hrafnkell kveðst fleiri menn hafa drepit, enn þenna einn; „Er þer þat eigi úkunnigt, at ek vil eingan „mann fe bœta, ok verða menn þat þó svá gjört „at hafa; en þó læt ek svá, sem mer þykki þetta „verk mitt í verra lagi víga þeirra, er ek hefi „unnit; hefir þú verit nábúi minn langa stund, „ok hefir mer líkat vel til þín, ok hvárum okkar „til annars; myndi okkr Einari eigi annat smátt „til orðit, ef hann hefði eigi riðit hestinum; en ver „munum nú þess iðrast, er ver várum of málgir; „ok sjaldnar myndim ver þess iðrast, þó at ver „mæltim færra enn fleira; man ek þat nú sýna, „at mer þykkir þetta verk mitt verra, enn önnur „þau, er ek hefi unnit; ek vil byrgja bú þitt at „málnytu í sumar, en slátrum í haust; svá vil „ek gera við þik hvert misseri, meðan þú vilt „búa. Sonu þína ok dœtr skulum við á braut „leysa með minni forsjá, ok efla þau svá, at þau „mætti fá góða kosti af því. Ok allt, er þú veizt „í mínum húsum vera, ok þú parft at hafa heðan

„af, þá skaltu mer til segja, ok eigi fyrir skorti*) „sitja heðan af um þá hluti, er þú þarft at hafa. „Skaltu búa, meðan þer þykkir gaman at; en „far þá hingat til mín, er þer leiðist; man ek þá „annast þik til dauðadags, ok skulum við þá vera „sáttir; vil ek þess vænta, at þat mæli fleiri, at „sá maðr se vel dýrr.“ „Eigi vil ek þenna kost,“ segir Þorbjörn. „Hvern viltu þá?“ segir Hrafnkell. Þá mælti Þorbjörn: „Ek vil, at við takim „menn til gerðar með okkr.“ Hrafnkell svarar: „Þá þykkist þú jafnmenntr mer, ok munum við „eigi at því sættast.“ Þá reið Þorbjörn í braut, ok ofan eptir Hrafnkelsdal. Hann kom til Laugarhúsa, ok hittir Bjarna bróður sinn, ok segir hánum þessi tíðindi; biðr, at hann muni nökkurn hlut í eiga um þessi mál. Bjarni kvað eigi sitt jafnmenni við at eiga, þar sem Hrafnkell er; „En „þó at ver stýrim penningum nökkurum, þá megum „við eigi deila af kappi við Hrafnkel; ok er þat „satt, er mælt er, at „sá er svinnr, er sik kann;“ „hefir hann þá marga málaferlum vafit, er meira bein „hafa í hendi haft, enn ver; sýnist mer þú vitlítill við „hafa orðit, er þú hefir svá góðum kostum neitað; „vil ek mer her eingu afskipta“ Þorbjörn mælti

*) Tilgáta. Handritin: skort, skart.

þá mörg herfilig orð til Bjarna bróður síns, ok segir því síðr dáð í hánum, sem meira lægi við. Hann ríðr nú í braut, ok skilja þeir bræðr með litilli blíðu. Hann lettir eigi fyrr, enn hann kemr ofan til Leikskála, drepr þar á dyr; var þar til dyra gengit. Þorbjörn biðr Sám út ganga. Sámr heilsaði vel frænda sínum, ok bauð hánum þar at vera. Þorbjörn tók því heldr seint. Sámr ser úgleði á Þorbirni, ok spyrr tíðinda; en hann segir víg Einars sonar síns. „Þat eru eigi mikil „tíðindi," segir Sámr, „þótt Hrafnkell drepi „menn." Þorbjörn spyrr, ef Sámr vildi nökkura liðveizlu veita ser. „Er þetta mál þann veg, þótt „mer se nánastr maðrinn, at þó er yðr eigi fjarri „höggvit." „Hefir þú nökkut eptir sæmdum leit- „að við Hrafnkel?" segir Sámr. Þorbjörn segir allt hit sanna, hversu farit hafði með þeim Hrafnkeli. „Eigi hefi ek varr orðit fyrr," segir Sámr, „at Hrafnkell hafi svá boðit nökkurum sem þer. „Nú vil ek ríða með þer upp á Aðalból, ok „förum við lítillátliga at við Hrafnkel, ok vita, ef „hann vill halda hin sömu boð; man hánum nökk- „urn veg vel fara." „Þat er bæði," segir Þorbjörn, „at Hrafnkell man nú eigi vilja; enda er „mer þat nú eigi heldr í hug, enn þá er ek reið „þaðan." Sámr segir: „Þungt get ek, at deila

„kappi við Hrafnkel um málaferli.“ Þorbjörn svarar: „Því verðr eingi uppreist yðar ungra „manna, at yðr vex allt í augum, hygg ek, at „eingi maðr eigi jafnmikil auðvirði at frændum, „sem ek; sýnist mer slíkum mönnum illa farit, „sem þer, er þykkist lögkœnn vera, ok ert gjarn „á smásakir, en vilt eigi taka við þessu máli, er „svá er brýnt; man þer verða ámælissamt, sem „makligt er, fyrir því at þú ert hávaðamestr í ætt „várri: se ek nú, hvat sök horfir.“ Sámr svarar: „Hverju góðu ertu þá nær enn aðr, þótt ek taka „við máli þessu, ok sem við þá báðir hraktir?“ Þorbjörn svarar: „Þó er mer þat mikil hugarbót, „at þú takir við málinu; verði at því, sem má.“ Sámr svarar: „Úfúss geng ek at þessu; meir gjöri „ek þat vegna frændsemi við þik; en vita skaltu, „at mer þykkir þar eigi at duga, sem þú ert.“ Þá retti Sámr fram höndina, ok tók við málinu af Þorbirni. — Sámr lætr nú taka ser hest ok ríðr upp eptir dal, ok ríðr á bœ einn, ok lýsir víginu; fær ser menn á hendr Hrafnkeli. Hrafnkell spyrr þetta, ok þótti hlœgiligt, er Sámr hefir tekit mál á hendr hánum. Leið af sumar þetta, ok vetr hinn næsti. En um várit, er komit var at stefnudögum, ríðr Sámr heiman, upp á Aðalból, ok stefnir Hrafnkeli um víg Einars. Eptir

þat ríðr Sámr ofan eptir dal, ok kvaddi búa til þingreiðar, ok sitr síðan um kyrt, þar til er menn búast til þings. Hrafnkell sendi þá ofan eptir Jökulsdal, ok kvaddi upp menn. Hann fær ur þinghá sinni sjautigi manna. Með þenna flokk ríðr hann austr yfir Fljótsdalsherað, ok svá fyrir vatnsbotninn, ok um þverau háls, til Skriðudals, ok upp eptir Skriðudal, ok suðr á Öxarheiði til Berufjarðar, ok retta þingmannaleið á Síðu. Suðr ur Fljótsdal eru sautján dagleiðir á þingvöll. En eptir þat er hann var í braut riðinn ur heraði, þá safnar Sámr at ser mönnum. Fær hann mest til reiðar með ser einhleypinga, ok þá, er hann hafði saman kvadt. Fær Sámr þessum mönnum vápn ok klæði ok vistir. Sámr snýr aðra leið ur dalnum. Hann ferr norðr til brúar, ok svá yfir brú, ok þaðan yfir Möðrudalsheiði; ok váru í Möðrudal um nátt. Þaðan riðu þeir til Herðibreiðstungu, ok svá fyrir ofan Bláfell, ok þaðan í Króksdal, ok svá suðr á Sand; ok koma ofan í Sandafell, ok þaðan á þingvöll; ok var þá Hrafnkell eigi kominn. Fórst hánum því seinna, at hann átti lengri leið. Sámr tjaldar búð mönnum sínum hvergi nær því, sem Austfirðingar eru vanir at tjalda; en nökkuru síðar kom Hrafnkell á þing. Hann tjaldar búð sína, svá sem hann

er vanr. Hann spyrr, at Sámr er á þingi. Hánum þótti þát hlœgiligt. Þetta þing var harðla fjölmennt. Váru þar flestir höfðingjar, þeir er váru á Íslandi. Sámr finnr alla höfðingja, ok bað ser trausts ok liðsinnis. En einn veg svöruðu allir, at eingi kvaðst svá gott eiga Sámi upp at gjalda, at ganga vildi í deild við Hrafnkel goða, ok hætta svá sinni virðingu. Segja ok þat einn veg flestum farit hafa, þeim er þingdeilur hafa haft við Hrafnkel, at hann hafi alla menn hrakit af málaferlum þeim, er við hann hafa haft. Sámr gengr heim til búðar sinnar; ok var þeim frændum þungt í skapi, ok uggðu, at þeirra mál myndi svá niðr falla, at þeir myndi eigi af hafa nema skömm ok svívirðing, ok svá mikla áhyggju hafa þeir frændr, at þeir njóta hvárki svefns ne matar, því at allir höfðingjar skárust undan liðsinni við þá frændr — jafnvel þeir, sem þeir væntu, at þeim myndi lið veita.

Þat var einn morgin snimma, at Þorbjörn karl vaknar. Hann vekr Sám, ok bað hann upp standa, „Ok má ek eigi sofa“. Sámr stendr upp, ok ferr í klæði sín. Þeir ganga út, ok ofan at Öxará, fyrir neðan brúna. Þar þvá þeir ser. Þorbjörn mælti við Sám: „Þat er ráð mitt, „at þú látir reka at hesta vára, ok búumst heim;

„er nú auðset, at oss vill eigi annat, enn „svívirðing.“ Sámr svarar: „Þat er vel, af því „þú vildir eigi annat, enn deila við Hrafnkel, ok „vildir eigi þá kosti þiggja, er margr gjarna „þegit hefði, sá er eptir sinn náunga átti at sjá; „frýðir þú oss mjök hugar, ok öllum þeim, er „í þetta mál vildu eigi ganga með þer; skal nú „ok aldreigi fyrr af láta, enn mer þykkir fyrir ván „komit, at ek geti nökkut at gjört.“ Þá fær Þorbirni svá mjök, at hann grætr. Þá sjá þeir vestan at ánni, hóti neðar enn þeir sátu, hvar fimm menn gengu saman frá einni búð. Sá var hár maðr, ok eigi þrekligr, er fyrir þeim var, ok fyrstr gekk — í laufgrænum kyrtli, ok hafði búit sverð í hendi, rettleitr maðr ok rauðlitaðr, ok vel í yfirbragði, ljósjarpr á hár ok mjök hærðr. Sá maðr var auðkenniligr; því hann hafði ljósan lepp í hári sínu hinn vinstra megin. Sámr mælti: „Stöndum upp, ok göngum vestr yfir ána til „móts við þessa menn.“ Þeir ganga nú ofan með ánni; ok sá maðr, er fyrir gekk, heilsar þeim fyrri, ok spyrr, hverir þeir væri; en þeir sögðu til sín. Sámr spurði þenna mann at nafni; en hann nefndist Þorkell, ok kvaðst vera Þjóstarsson. Sámr spurði, hvar hann væri ættaðr, eða hvar hann ætti heima? Hann kveðst vera vestfirzkr at

kyni ok uppruna, en eiga heima í Þorskafirði. Sámr mælti: „Hvert ertu goðorðsmaðr?“ Hann kvað þat fjarri fara. „Ertu þá bóndi?“ segir Sámr. Hann kvað þat eigi vera. Sámr mælti: „Hvat manna ertu þá?“ Hann svarar: „Ek em einn „einhleypingr; kom ek út í fyrra sumar; hefi ek „verit utan sjau vetr, ok farit út í Miklagarð, en „er handgenginn Garðskonunginum; en nú em „ek á vist með bróður mínum, þeim er Þorgeirr „heitir.“ „Er hann goðorðsmaðr?“ segir Sámr. Þorkell svarar: „Goðorðsmaðr er hann víst — um „Þorskafjörð, ok víðar um Vestfjörðu.“ „Er hann „her á þinginu?“ segir Sámr. „Her er hann víst,“ segir Þorkell. „Hversu margmennr er hann?“ segir Sámr. „Við sjautigi manna,“ segir Þorkell. „Eru þer fleiri brœðrnir?“ segir Sámr. „Er hinn „þriði“, segir Þorkell. „Hverr er sá?“ segir Sámr. „Hann heitir Þormóðr,“ segir Þorkell, „ok býr í „Görðum á Álptanesi; hann á Þordísi, dóttur „Þórólfs Skallagrímssonar frá Borg.“ „Viltu „nökkurt liðsinni veita okkr?“ segir Sámr. „Hvers „þurfi þið við?“ segir Þorkell. „Liðsinnis ok „afla höfðingja,“ segir Sámr; „því at við eigum „málum at skipta við Hrafnkel goða um víg „Einars Þorbjarnarsonar; en við megum vel „hlíta okkrum flutningi með þínu fulltingi.“

Þorkell svarar: „Svá er, sem ek sagða — ek em
„eingi goðorðsmaðr.“ „Hví ertu svá afskipta
„gjörr,“ segir Sámr, „þar sem þú ert höfðingja-
„son, sem aðrir bræðr þínir?“ Þorkell svarar:
„Eigi sagða ek, at ek ætti þat eigi; en ek selda
„í hendr Þorgeiri bróður mínum mannaforráð
„mitt, áðr enn ek fór utan; síðan hefi ek eigi
„viðtekit, fyrir því, at mer þykkir vel komit,
„meðan hann varðveitir; gangi þið á fund hans,
„ok biðit hann á sjá; hann er skörungr í skapi,
„ok drengr góðr, ok í alla staði vel menntr, ungr
„maðr ok metnaðargjarn; eru slíkir menn vænstir
„til, at veita ykkr liðsinni.“ Sámr segir: „Af
„hánum munum við eigi fá, nema þú sert í flut-
„ningi með okkr.“ Þorkell segir: „Því man ek
„heita, at vera heldr með ykkr enn móti, með
„því at mer þykkir ærin nauðsyn til, at mæla
„eptir náskyldan mann; farit nú fyrir til
„búðarinnar, ok gangit inn í búðina; er mann-
„fólk í svefni; þið munut sjá, hvar standa innar
„um þvera búðina tvau húðföt, ok reis ek upp
„ur öðru, en í öðru hvílir Þorgeirr bróðir minn;
„hann hefir haft kveisu mikla í fætinum, síðan
„hann kom á þingit, ok því hefir hann lítt sofit
„um nætr; en nú sprakk fóturinn í nátt, ok er
„ur kveisunaglinn; en nú hefir hann sofit síðan,

„ok hefir rettan fótinn út undan fötunum fram „á fótafjölina sakir ofrhita, er á er fœtinum; „gangi sá hinn gamli maðr fyrir, ok svá innar „eptir búðinni; mer sýnist hann mjök hrymdr*) „bæði at sýn ok elli; þá er þú maðr," segir Þorkell, „kemr at húðfatinu, skaltu rasa mjök ok „fall á fótafjölina ok tak í tána þá, er um er „bundit, ok hnykk at þer, ok vit, hversu hann „verðr við." Sámr mælti: „Heilráðr mantu okkr „vera; en eigi sýnist mer þetta ráðligt." Þorkell svarar: „Annathvárt verðit þið at gjöra, at „hafa þat, er ek legg til, eðr leita eigi ráða til „mín." Sámr mælti: „Svá skal vera, sem þú gefr „ráð til." Þorkell kvaðst mundu ganga síðar; „því at ek bíð manna minna." Nú gengu þeir Sámr ok Þorbjörn, ok koma í búðina. Sváfu þar menn allir. Þeir sjá brátt, hvar Þorgeirr lá. Þorbjörn karl gekk fyrir, ok fór mjök hrasandi. En er hann kom at húðfatinu, þá fellr hann á fótafjölina, ok þrífr í tána, þá er vanmátta var, ok hnykkir at ser; en Þorgeirr vaknar við, ok hljóp upp í húðfatinu, ok spurði, hverr þar fœri svá hraparliga, at hlypi á fœtr mönnum, er áðr váru vanmátta. En þeim Sámi varð eigi at orði.

*) Þann veg handritin nær öll.

Þá snaraði Þorkell inn í búðina, ok mælti til Þorgeirs bróður síns: „Ver eigi svá bráðr ne óðr, „frændi! um þetta, því at þik mun eigi saka; „en mörgum tekst verr enn vill, ok verðr „þat mörgum, at þá fá eigi alls gætt jafn„vel, er þeim er mikit í skapi. En þat er vár„kunn, frændi! at þer se sárr fótur þinn, er „mikit mein hefir í verit; mantu þess mest á „þer kenna. Nú má ok þat vera, at gömlum „manni se eigi ósárari sonardauði sinn, en fá „eingar bætr — ok skorti hvatvetna sjálfr; „man hann þess gjörst kenna á ser; ok er þat „at vánum, at sá maðr gæti eigi alls vel, er mikit „býr í skapi.“ Þorgeirr svarar: „Eigi hugða ek, „at hann mætti mik þessa kunna; því at eigi drap „ek son hans; ok má hann af því eigi á mer „þessa hefna.“ „Eigi vildi hann á þer þessa hefna,“ segir Þorkell; „en fór hann at þer harðara, „enn hann vildi, ok galt hann úskygnleika síns, „en vænti ser af þer nökkurs trausts; er þat nú „drengskapr at veita gömlum manni ok þurftigum; „er hánum þetta nauðsyn, en eigi seiling, þó at „hann mæli eptir son sinn; en nú ganga allir „höfðingjar undan liðveizlu við þessa menn; ok „sýna í því mikinn údrengskap.“ Þorgeirr mælti: „Við hvern eiga þessir menn at kæra?“ Þorkell

svarar: „Hrafnkell goði hefir vegit son Þorbjar-„nar, saklausan. Vinnr hann hvert úverk at öðru, „en vill eingum manni sóma unna fyrir.“ Þorgeirr mælti: „Svá man mer fara, sem öðrum, at ek „veit mik þessum mönnum eigi eiga gott at launa, „svá at ek vili ganga í deilur við Hrafnkel. „Þykkir mer hann þann veg fara hvert sumar „við þá menn, er málum eiga at skipta við hann, „at flestir menn fá litla virðing, eðr einga, áðr „lúki, ok se ek þar fara einn veg öllum. Get „ek af því flesta menn úfúsa til, þá sem eingi „nauðsyn dregr til.“ Þorkell svarar: „Þat má „vera, at svá færi mer, ef ek væri höfðingi, at „mer þætti íllt at deila við Hrafnkel; en eigi „sýnist mer nú svá, fyrir því, at mer þætti við „þann bezt at eiga, er allir hrekjast fyrir áðr; „ok þætti mer mjök vaxa virðing þess höfðingja, „er á Hrafnkel gæti nökkura vík róit, en minn-„kast eigi, þó at mer færi sem öðrum; fyrir því, „at má mer þat, er yfir margan gengr; hefir sá „ok jafnan, er hættir.“ „Se ek,“ segir Þorgeirr, „hversu þer er gefit, at þú vilt veita þessum „mönnum. Nú man ek selja þer í hendr goðorð „okkart ok mannaforráð, ok haf þú þat, sem ek „hefi haft áðr, en þaðan af höfum við jafnað af „báðir, ok veittu þá þeim, er þú vilt.“ „Svá

„sýnist mer“ segir Þorkell, „sem þá muni goðorð „várt bezt komit, er þú hefir sem lengst; ann ek „eingum jafnvel sem þer þat at hafa, því at þú „hefir marga hluti til menntar umfram alla oss „brœðr; en ek úráðinn, hvat er ek vil af mer „gjöra af bragði. En þú veizt, frændi! at ek hefi „til fás hlutazt, síðan ek kom til Íslands; má ek „nú sjá, hvat mín ráð gilda skulu; hefi ek nú „flutt, sem ek man at sinni. Kann vera, at Þorkell „leppr komi þar, at hans orð verði meira metin.“ Þorgeirr svarar: „Se ek nú, frændi! hversu þer „mislíkar við mik; má ek þat eigi vita, ok munu „um við fylgja þessum mönnum, hversu sem „ferr.“ Þorkell mælti: „Þess eins bið ek, at mer „þykkir betr, at veitt se.“ „Til hvers þykkjast „þessir menn fœrir,“ segir Þorgeirr, „svá at fram„kvæmd verði at þeirra máli?“ „Svá er, sem „ek sagða í dag,“ segir Sámr, „at styrk þurfum „við af höfðingjum, en málaflutning á ek undir „mer.“ Þorgeirr kvað hánum þá gott at duga; „Ok er nú þat til, at búa mál til sem kœnligast. „En mer þykkir, sem Þorkell bróðir minn vili, „at þið vitið hans, áðr dómar fara út; munu þið „þá hafa annathvárt fyrir þrá ykkart — nökkura „huggan, eðr læging enn meiri enn áðr ok hrell„ing ok skapraun. 'Gangit nú heim, ok verit kátir,

„af því at þess munu þið við þurfa, ef þið skulut „deila við Hrafnkel, at þið berit ykkr vel upp „um hríð; en segi þið engum manni, at við „höfum liðveizlu heitið ykkr.“ Þá gengu þeir heim til búðar sinnar; váru þá sem ölteitir menn. Undruðust þetta allir, hví þeir helði svá skjótt skapskipti tekit, þar sem þeir váru úglaðir, er þeir fóru heiman. Nú sitja þeir, þar til er dómar fara út. Þá kveðr Sámr upp menn sína, ok gengr til lögbergis; var þar þá dómr settr. Sámr gekk þá djarfliga at dóminum. Hann hefr þegar upp váttnefnu, ok sótti mál sitt at rettum landslögum, á hendr Hrafnkeli goða, miskviðalaust, ok með sköruligum flutningi. Þessu næst koma þeir Þjóstarssynir með mikla sveit manna. Allir menn vestan af landi veittu þeim lið, ok sýndist þat, at Þjóstarssynir váru menn vinsælir. Sámr setti mál í dóm, þar til er Hrafnkeli var boðit til varnar, nema sá maðr væri þar við staddr, er lögvörn vildi frammi hafa fyrir hann at rettu lögmáli. Rómr varð mikill at máli Sáms, ok spurt, hvert eingi vildi lögvörn fram bera fyrir Hrafnkel. Menn hlupu til búðar Hrafnkels, ok sögðu hánum, hvat um var at vera. Hann veikst við skjótt, ok kvaddi upp menn sína, ok gekk til dóma; hugði, at þar myndi lítil vörn fyrir

hendi; hafði hann þat í hug ser, at leiða smámönnum at sœkja mál á hendr hánum; ætlaði hann at hleypa upp dóminum fyrir Sámi, ok hrekja hann af málinu. En þess var nú eigi kostr. Þar var fyrir sá mannfjöldi, at Hrafnkell komst hvergi nær, ok var hánum þröngt frá [í braut með miklu ofríki, svá at hann náði eigi at heyra mál þeirra, er hann sóttu; var hánum því úhægt at fœra lögvörn fram fyrir sik. En Sámr sótti málit til fullra laga, til þess er Hrafnkell varð alsekr á þessu þingi. Hrafnkell gengr þegar til búðar sinnar, ok lætr taka hesta sína, ok ríðr í braut af þingi, ok undi illa við sínar málalyktir; því hann átti aldreigi fyrr slíkar. Ríðr hann þá austr Lyngdalsheiði, ok svá austr á Síðu; ok eigi lettir hann fyrr, enn hann kemr heim í Hrafnkelsdal, ok sezt á Aðalból, ok let sem eigi hefði í orðit. En Sámr var á þingi eptir, ok gekk mjök uppstærtr*). Mörgum mönnum þykkir vel, þó at þann veg hafi atborizt, at Hrafnkell hafi [hneykjnför farit**); ok minnast nú, at hann hefir mörgum

*) Þann veg sjau handrit; uppstertr fimm; uppsteittr eitt; uppspertr eitt; upp hagr hans tvau.

**) Þann veg fjögur handrit; hnejkjn farit fimm; hnejkjn feingit tvau; hneckiu farit eitt;

újafnað sýnt. Sámr bíðr til þess, at slitið er þinginu. Búast menn þá heim. Þakkar hann þeim brœðrum sína liðveizlu; en Þorgeirr spurði Sám hlœjandi, hversu hánum þætti at fara? Hann let vel yfir því. Þorgeirr mælti: „Þykkist þú „nú nökkuru nær, enn áðr?“ Sámr mælti: „Beðit „þykkir mer Hrafnkell hafa sneypu mikla, er lengi „man uppi vera; ok er þetta við mikla femuni.“ Þorgeirr mælti: „Eigi er maðrinn alsekr, meðan „eigi er háðr feráusdómr; ok hlýtr þat at hans „heimili at gjöra; þat skal vera fjórtán náttum „eptir vápnatak.“ (En þat heitir vápnatak, er alþýða ríðr af alþingi.) „En ek get,“ segir Þorgeirr, „at Hrafnkell muni heim kominn, ok „ætli at sitja á Aðalbóli; get ek, at hann muni „halda mannaforráði fyrir yðr. En þú mant ætla „at ríða heim, ok setjast í bú þitt, ef þú náir, „at bezta kosti. Get ek, at þú hafir þat svá „þinna mála, at þú kallir hann skógarmann; en „slíkan ægishjálm get ek at hann beri yfir aðra „menn, sem áðr, nema þú hljótir at fara nökkuru „lægra.“ „Aldreigi hirði ek þat,“ segir Sámr.

---

hneckiu för farit tvau; hnecki för farit eitt; hnejsu för farit eitt; hnejsu ferð farit eitt.

„Hraustr maðr ertu,“ segir Þorgeirr, „ok þykkir „mer, sem Þorkell, frændi minn, vili eigi gjöra „endamjótt við þik. Hann vill fylgja þer, þar „til er ur slítr með ykkr Hrafnkeli, ok megir „þú þá sitja um kyrrt. Man yðr nú þykkja við „skyldastir at fylgja þer, er við höfum áðr mest „í fengizt; skulum við nú fylgja þer um sinn- „sakir í Austfjörðu; eða kanntu nökkura þá leið „til Austfjarða, at eigi se almannavegr?“ Sámr kvaðst fara mundu hina sömu leið, sem hann fór austan, ok varð hann nú þessu feginn. Þorgeirr valdi lið sitt, ok let ser fylgja fjörutigi manna. Sámr hafði ok fjörutigi manna. Var þat lið vel búit at vápnum ok hestum. Eptir þat ríða þeir alla hina sömu leið, þar til er þeir koma í Jökulsdal í nætrelding; fara yfir brú á ánni; ok var þetta þann morgin, er ferånsdóm átti at heyja. Þá spyrr Þorgeirr, hversu þeir mætti helzt á úvart koma. Sámr kveðst mundu kunna ráð til þess. Hann snýr þegar af leiðinni, ok upp á múlann, ok svá eptir hálsinum milli Hrafnkelsdals ok Jökulsdals, þar til er þeir koma utan undir fjallit, er bærinn stendr undir niðri á Aðalbóli. Þar gengu grasgeilar í heiðina, en þar var brekka brött ofan í dalinn; ok stóð þar bærinn undir niðri. Þar stígr Sámr af baki, ok

mælti: „Látum lausa hesta vára, ok geymi tuttugu „menn; en ver sextigir saman hlaupum at hœn„um, ok get ek, at fátt muni manna á fótum.“ Þeir gjörðu nú svá, ok heita þar síðan hrossageilar. Þá bar skjótt at hœnum. Váru þa liðin rismál. Eigi var fólk upp staðit. Þeir skutu stokki á hurð, ok hlupu inn. Hrafnkell lá í rekkju sinni. Taka þeir hann ok alla heimamenn hans, þá er vápnfœrir váru. Konur ok börn var rekit í eitt hús. Í túninu stóð útibúr. Af því ok heim á skálaveggin var skotit váðási einum. Þeir leiða Hrafnkel þar at ok menn hans. Hann bauð mörg boð fyrir sik ok sína menn. En er þat tjáði eigi, þá bað hann mönnum sínum lífs; „Því at þeir hafa eigi til saka „gjört við yðr; en þat er mer eingi úsœmd, þó „at þer drepit mik; man ek eigi undan því mæl„ast; en undan hrakningum mælumst ek; er yðr „eingi sœmd í því.“ Þorkell mælti: „Þat höfum „ver heyrt, at þú hafir lítt verit leiðitamr þínum „úvinum, ok er nú vel, at þú kennir þess í dag „á þer.“ Þá taka þeir Hrafnkel ok menn hans, ok binda hendr þeirra á bak aptr. Eptir þat brutu þeir upp útibúrit, ok tóku reip ofan ur krókum; taka síðan knífa sína, ok stinga raufar á hásinum þeirra, ok draga þar í reipin, ok kasta

þeim svá upp yfir ásinn, ok binda þá svá átta saman. Þá mælti Þorgeirr: „Svá er nú komit „kosti yðrum, Hrafnkell, sem makligt er; ok „myndi þer þykkja þetta úlikligt, at þú myndir „slíka skömm fá af nökkurum manni, sem nú er „orðit; eðr hvárt viltu nú heldr gjöra, Þorkell! „at sitja her hjá Hrafnkeli ok gæta þeirra, eðr „viltu fara með Sámi ur garði í braut í örskots-„helgi við bœinn ok heyja feránsdóm á grjóthól „nökkurum, þar sem hvártki er akr ne eng.“ (Þetta skyldi í þann tíma gjöra, er sól væri í fullu suðri.) Þorkell svarar: „Ek vil her sitja, „hjá Hrafnkeli; sýnist mer þetta starfaminna.“ Þeir Þorgeirr ok Sámr fóru þá, ok háðu feránsdóm. Ganga heim eptir þat, ok taka Hrafnkel ofan ok hans menn, ok settu þá niðr í túninu; ok var þá sigit blóð fyrir augu þeim. Þá mælti Þorgeirr til Sáms, at hann skyldi gjöra til Hrafnkels slíkt, er hann vildi; „Því at mer sýnist nú „úvandleikit við hann.“ Sámr svarar: „Tvá kosti „gjöri ek þer, Hrafnkell! sá er annarr, at þik „skal leiða ur garði braut, ok þá menn, er mer „líkar, ok vera drepinn; en með því at þú átt „úmegð mikla fyrir at sjá, þá vil ek þess unna „þer, at þú sjáir þar fyrir. Ok ef þú vilt líf „þiggja, þá far þú af Aðalbóli með allt lið þitt,

„ok haf þá eina femuni, er ek skapa þer, ok man „þat harðla lítið; en ek skal taka staðfestu þína ok „mannaforráð allt; skaltu þar aldreigi tilkall veita, „ne þínir erfingjar; hvergi skaltu nær vera, enn „fyrir vestan Fljótdalsherað; ok máttu nú eiga „handsöl við mik, ef þú vilt þenna upp taka.“ Hrafnkell mælti: „Mörgum myndi betri þykkja „skjótr dauði, enn slíkar hrakningar; en mer „man fara, sem mörgum öðrum, at lífit man ek „kjósa, ef kostr er; gjöri ek þat mest sakir sona „minna; því at lítil man verða uppreisn þeirra, „ef ek dey frá.“ Þá er Hrafnkell tekinn ok leystr ok hans menn, ok seldi Hrafnkell Sámi sjálfdæmi. Sámr skipti Hrafnkeli af fe slíkt, er hann vildi, ok var þat raun lítið. Spjót sitt hafði Hrafnkell með ser, en eigi fleira vápna. Þenna dag færði Hrafnkell sik braut af Aðalbóli ok allt sitt fólk. Þorkell mælti þá við Sám: „Eigi „veit ek, hví þú gjörir þetta; mant þú þess mest „iðrast sjálfr, er þú gefr Hrafnkeli líf.“ Sámr kvað þá svá vera verða. Hrafnkell færði nú bú sitt austr yfir Fljótsdalsherað, ok um þveran Fljótsdal, fyrir austan Lagarfljót. Við vatnsbotninn stóð einn lítill bær, er het á Lokhyllu. Þetta land keypti Hrafnkell í skuld; því at eigi var kostrinn meiri, enn til búshluta þurfti at hafa. — Á þetta

lögðu menn mikla úmræðu, hversu hans ofsi hefði niðr fallit; ok minnist nú margr á fornan orðskvið, at „skömm er úhófs æfi.“ — Þetta var skógland mikit, ok vítt merkjum, en vánt at húsum, ok fyrir þat efni keypti hann landit litlu verði. En Hrafnkell sá eigi mjök í kostnað, ok felldi mörkina, því at hon var stór, ok reisti þar reisiligan bœ, þann er síðan heitir á Hrafnkelsstöðum. Hefir þat jafnan síðan verit kallaðr góðr bœr. Bjó Hrafnkell þar við mikil úhœgindi hin fyrstu misseri. Hann hafði mikinn atdrátt af fiskum. Hrafnkell gekk mjök at verknaði, meðan bœrinn var í smíðum. Hrafnkell dróg á vetr kálf ok kið hin fyrstu misseri. Hann helt vel, svá at nær lifði hvatvetna, þat er til ábyrgðar var. Mátti svá at kveða, at náliga væri tvau höfuð á hverju kvikindi. Á því sama sumri lagðist veiði mikil í Lagarfljót. Af slíku gjörðust mönnum búshœgindi í heraðinu, ok þat helzt vel hvert sumar. — Sámr setti bú á Aðalbóli eptir Hrafnkel; ok síðan efflir hann veizlu virðuliga, ok býðr til öllum þeim, er verit höfðu þingmenn Hrafnkels. Sámr býðst til at vera yfirmaðr þeirra í stað Hrafnkels. Menn játuðust undir þat, ok hugðu þó enn misjafnt til. Þeir brœðr reðu hánum þat, at hann skyldi vera bliðr ok góðr fjárins, ok

gagnsamr sínum mönnum, styrktarmaðr hverra sem með þyrfti; „Ok eru þeir þá eigi menn, ef „þeir fylgja þer eigi vel, hvers sem þú þarft við; „en því ráðu við þer þetta, at við vildim, at „þer tækist allt vel, því at þú virðist okkr vaskr „maðr; gættu nú vel til, ok vert varr um þik, „því at „vant er við vándum at sjá.“ Þeir bræðr letu senda eptír Freyfaxa ok liði hans, ok kváðust vilja sjá gripi þessa, er svá gengi miklar sögur af. Þá váru hrossin heim leidd. Þeir bræðr lita á hrossin. Þá mælti Þorgeirr: „Þessi „hross lítast mer þörf búinu; er þat mitt ráð, „at þau vinni slíkt, er þau mega, til gagns „mönnum, þangat til þau mega eigi lifa fyrir „aldrs sakir; en hestr þessi sýnist mer eigi „betri, enn aðrir hestar, heldr því verri, at mart „íllt hefir af hánum hlotizt; vil ek eigi, at fleiri „víg hljótist af hánum, enn áðr hafa af hánum „orðit; man þat makligt, at sá taki við hánum, „er hann á.“ Þeir leiða nú hestinn ofan eptir vellinum. Einn hamarr stendr niðr við ána, en fyrir neðan hylr djúpr. Þar leiða þeir nú hestinn fram á hamarinn. Þeir bræðr drógu fat eitt á höfuð hestinum, ok bundu stein við hálsinn; tóku síðan háfar stengr, ok hrundu af fram, ok týndu hánum svá. Heitir þar síðan Freyfaxa-

hamarr. Þar ofan frá standa goðahús þau, er Hrafnkell hafði átt. Þorkell vildi koma þar. Let hann fletta goðin öll; eptir þat lætr hann leggja eld í goðahúsit ok brenna allt saman at ösku. Síðan búast boðsmenn í braut. Velr Sámr þeim ágæta gripi báðum bræðrum ok mæla til fullkominnar vináttu með ser, ok skiljast allgóðir vinir. Ríða nú retta leið vestr í Fjörðu, ok koma heim í Þorskafjörð með virðingu. En Sámr setti Þorbjörn niðr á Leikskálum; skyldi hann þar búa; en kona Sáms fór til hús með hánum á Aðalból, ok býr Sámr þar um hríð. Hrafnkell spurði austr í Fljótsdal, at Þjóstarssynir höfðu týnt Freyfaxa ok brennt hofit. Þá svarar Hrafnkell: „Aldreigi skal ek á goð trúa;“ ok þat efndi hann síðan, at hann blótaði aldreigi. Hrafnkell sat á Hrafnkelsstöðum, ok rakaði fe saman. Hann fekk miklar virðingar í heraðinu; vildi svá hverr sitja ok standa, sem hann vildi. Í þann tíma komu sem mest skip af Noregi til Íslands. Námu menn þá sem mest lönd í heraðinu, um Hrafnkels daga. Eingi náði með frjálsu at sitja, nema Hrafnkel bæði orlofs. Þá urðu ok allir hánum at heita sínu liðsinni. Lagði hann land undir sik allt fyrir austan Lagarfljót. Þessi þinghá varð brátt miklu meiri ok fjölmennari,

enn sú er hann hafði áðr haft; hon gekk um Skriðndal, ok upp allt með Lagarfljóti. Var nú betri skipan á komin um lund hans. Maðrinn var nú miklu vinsælli, enn áðr: hafði hann hina sömu skapsmuni um gagnsemd ok risnu; en miklu var hann nú gæfri enn fyrr ok hægri at öllu. Opt fundust þeir Hrafnkell ok Sámr á mannamótum, ok minntust þeir aldreigi á sín viðskipti. Leið svá fram sex vetr. Sámr var vinsæll af sínum þingmönnum, því at hann var hægr ok kyrr ok góðr urlausna, ok minntist á þat, er þeir bræðr höfðu ráðit hánum. Sámr var skartsmaðr mikill.

Þess er getið, at skip kom af hafi í Reyðarfjörð, ok var stýrimaðr Eyvindr Bjarnason. Hann hafði ntan verit sjau vetr. Eyvindr hafði mikit við gengizt um mart, ok var orðinn hinn vaskasti maðr. Eru hánum sögð brátt þau tíðindi, er gjörzt höfðu, ok let hann ser um þat fátt finnast. Hann var fáskiptinn maðr. Þegar Sámr spyrr þetta, ríðr hann til skips. Verðr nú mikill fagnafundr með þeim bræðrum. Sámr býðr hánum vestr til sín; en Eyvindr tekr því vel, ok biðr Sám ríða heim fyrir, en senda hesta á móti varningi hans.. Hann setr upp skip sitt, ok býr um. Sámr gjörir nú svá, ferr heim, ok lætr reka hesta á móti Eyvindi; ok er hann hefir nú búit

varnað sinn, býr hann ferð sína til Hrafnkelsdals; ferr upp eptir Reyðarfirði. Þeir váru fimm saman, ok hinn setti skósveinn Eyvindar. Sá var íslenzkr at kyni, skyldr hánum. Þenna svein hafði Eyvindr tekit af válæði, ok flutt utan með ser, ok haldit sem sjálfan sik. Þetta bragð Eyvindar var uppi haft; ok var þat alþýðu rómr, at færri væri hans líkar. Þeir ríða upp Þórsdalsheiði, ok ráku fyrir ser sextán klyfjaða hesta. Váru þar húskarlar Sámr tveir, — ok þrír farmenn, ok váru þeir allir í litklæðum, ok riðu við fagra skjöldu. Þeir riðu um þveran Skriðudal, ok yfir Háls, ok yfir til Fljótsdals, þar sem heita Buðlungavellir, ok ofan á Gilsáreyri; hon gengr austan at fljótinu millum Hallormsstaða ok Hrafnkelsstaða. Ríða þeir þá upp með Lagarfljóti fyrir neðan völl á Hrafnkelsstöðum, ok svá fyrir vatnsbotninn, ok yfir Jökulsá at Skálavaði. Þá var jafnnær rismálum ok dagmálum. Kona ein var við vatnit, ok þó lerept sín. Hon ser ferð manna. Griðkona sú sópar saman lereptunum, ok hleypr heim. Hon kastar þeim niðr úti hjá viðarkesti, en hleypr inn. Hrafnkell var þá eigi upp staðinn. Vildir menn lágu í skálanum, en verkmenn váru til iðnar farnir. Þetta var um heyaannir. Konan tók til orða, er hon kom inn: „Satt er þat flest, er forn-

„kveðit er, „at svá ergist hverr, sem eldist“; verðr „sú lítil virðing, er snimma leggst á, ef maðr „lætr síðan af með úsóma, ok hefir eigi traust „til at reka þess rettar nökkuru sinni, ok eru „slíkt mikil undr um þann mann, sem hraustr „hefir verit; nú er annan veg þeirra lífi, er upp „vaxa með feðrum sínum; ok þykkja yðr eingis „háttar hjá yðr; en, þá er þeir eru frumvaxta, „fara land af landi, ok þykkja þar mesthattar, „sem þá koma þeir; koma við þat út, ok þykkjast „þá höfðingjum meiri. Eyvindr Bjarnason reið „her yfir á at Skálavaði með svá fagran skjöld, „at ljómaði af; er hann svá menntr, at hefnd væri í hánum.“ Lætr griðkonan ganga af kappi. Hrafnkell rís upp, ok svarar henni: „Kann vera, „at þú mælir mart hölzti satt — eigi fyrir því, at „þer gangi gott til; er nú vel, at þer aukist „erfidi; far þú hart suðr á Víðivöllu eptir þeim „Hallsteinssonum, Sighvati ok Snorra; bið þá „skjótt til mín koma með þá menn, sem þar eru „vápnfærir.“ Aðra griðkonu sendir hann út á Hrólfsstaði, eptir þeim Hrólfssonum, Þórði ok Halla, ok þeim, sem þar váru vápnfærir. Þessir hvárirtveggju váru gildir menn ok allvel menntir. Hrafnkell sendi ok eptir húskörlum sínum. Þeir urðu alls átján saman. Þeir vápnuðust harðfengi-

liga; ríða þar yfir á, sem hinir fyrri. Þá váru þeir Eyvindr komnir upp a heiðina. Eyvindr ríðr til þess, er hann kemr vestr á miðja heiðina. Þar heita Bessagötur. Þar er svarðlaus mýri, ok er sem ríði í eina dýnn*) fram, ok tók jafnan í kne eðr í miðjan legg, stundum í kvið; þá er undir svá hart sem hólkn. Þá er hraun stórt fyrir vestan; ok er þeir koma á hraunit, þá lítr sveinninn aptr, ok mælti til Eyvindar: „Menn ríða þar „eptir oss," segir hann, „eigi færri enn átján; „er þar mikill maðr á baki í blám klæðum, ok „sýnist mer líkt Hrafnkeli goða; þó hefi ek nú „lengi eigi set hann." Eyvindr svarar: „Hvat „man oss skipta? veit ek mer eingis ótta ván af „reið Hrafnkels; ek hefi hánum eigi í móti gjört. „Man hann eiga örendi vestr til dals at hitta „vini sína." Sveinninn svarar: „Þat bíðr mer í „hug, at hann muni þik hitta vilja." „Eigi veit „ek," segir Eyvindr, „til hafa ordit með „þeim Sámi bróður mínum, síðan þeir sættust." Sveinninn svarar: „Þat vildi ek, at þú riðir „undan vestr til dals; mantu þá geymdr; ek „kann skapi Hrafnkels, at hann man ekki gjöra „oss, ef hann náir þer eigi; er þá alls gætt, ef

*) Þann veg fimm handrit.

„þín er eins; ok er þá eigi dýr í festi, ok er „vel, hvat sem af oss verðr.“ Eyvindr sagðist eigi mundu brátt undan ríða; „Því at ek veit „eigi, hverir þessir eru; myndi þat mörgum „manni hlægiligt þykkja, ef ek renn at öllu „úreyndu“. Þeir ríða nú vestr af hrauninu. Þá er fyrir þeim önnur mýri, er heitir Uxamýri. Hon er grösug mjök. Þar eru bleytur, svá at náliga er úfært yfir; af því lagði Hallfreðr karl hinar efri götur, þó at þær væri lengri. Eyvindr ríðr vestr á mýrina. Lá þá drjúgum í fyrir þeim, ok dvaldist þá mjök fyrir þeim. Hina bar skjótt eptir, er lausir riðu. Ríða þeir Hrafnkell nú leið sína á mýrina. Þeir Eyvindr váru þá komnir af mýrinni, sjá þeir þá Hrafnkel ok sonu hans báða. Þeir báðu þá Eyvind undan ríða; „Eru nú af allar torfœrur; „mantu ná til Aðalbóls, meðan mýrin er á millum.“ Eyvindr svarar: „Eigi man ek flýja „undan þeim mönnum, er ek hefi eigi til miska „gjört.“ Þeir ríða þá upp á hálsinn. Þar standa fell lítil; utan í fjallinu er meltorfa ein, blásin mjök, en bakkar háfir utan um kring. Eyvindr ríðr at torfunni. Þar stígr hann af baki, ok bíðr þeirra. Eyvindr mælti þá: „Nú munu ver „skjótt vita þeirra örendi.“ Eptir þat ganga þeir

upp á torfuna, ok brjóta þar upp grjót nökkurt. Hrafnkell snýr þá af götunni, ok suðr at torfunni. Hann hafði eingi orð við Eyvind, ok veitti þegar atgöngu. Eyvindr varðist vel ok drengiliga. Skósveinn Eyvindar þóttist eigi kröptugr til orrustu, ok tók hest sinn, ok ríðr vestr yfir háls til Aðalbóls, ok segir Sámi, hvat leika er. Sámr brá skjótt við, ok sendi eptir mönnum. Urðu þeir saman tuttugu. Var þetta lið vel búit. Ríðr Sámr austr á heiðina, ok at þar, er vetfangit*) hafði verit. Þá váru umskipti orðin með þeim. Reið Hrafnkell þá austr frá verkum þessum. Eyvindr var þá fallinn ok allir hans menn. Sámr gjörði þat fyrst, at hann leitaði lífs með hróður sínum. Var þat trúliga gjört: þeir váru allir líflátnir fimm saman. Þar váru ok fallnir tólf menn af Hrafnkeli, en sex riðu í braut. Sámr átti þar litla dvöl. Hann ok hans menn ríða þegar eptir. Þeir Hrafnkell ríða nú undan, sem máttu; hafa þó mædda hesta. Þá mælti Sámr: „Ná „megu ver þeim; því þeir hafa mædda hesta, „en ver höfum alla hvílda, ok man nálægr verða, „hvárt ver nám þeim, eðr eigi, áðr enn þeir komast

*) Þann veg handritin nær öll; hin vættfánngit, vættfengit.

af heiðinni.“ Þá var Hrafnkell kominn austr af Uxamýri. Ríða nú hvárirtveggju, allt til þess, er Sámr kemr á heiðarbrúnina. Sá hann þá, at Hrafnkell var kominn langt ofan í brekkurnar. Ser Sámr, at hann muni undan taka ofan í heraðit. Hann mælti þá: „Her munum ver aptr snúa við „svá búit.“ Kemr þar til, er Eyvindr lá, tekr til, ok verpr haug eptir hann ok felaga hans. Er þar nú kölluð Eyvindartorfa, er hann fell, ok Eyvindardalr. Sámr ferr þá með allan varnaðinn heim á Aðalból. Ok er hann kemr heim, sendir Sámr eptir þingmönnum sínum, at þeir skyldi koma þar um morgininn fyrir dagmál; ætlar hann þá austr yfir heiði; „Verðr ferð vár „slík, sem má.“ Um kveldit ferr Sámr í hvílu, ok var þar mart komit manna. Hrafnkell reið heim, ok sagði tíðindi þessi. Hann etr mat; ok eptir þat samnar hann mönnum at ser, svá at hann fær áttatigi manna, ok ríðr með þetta lið vestr yfir heiði, ok kemr á úvart til Aðalbóls, ok tekr Sám í rekkju, ok leiðir hann út. Hrafnkell mælti þá: „Nú er svá komit kosti þínum, „Sámr, at þer myndi úlíkligt þykkja fyrir stundu, „at ek á nú vald á lífi þínu. Skal ek nú eigi „vera þer verri drengr, enn þú vart mer. Man „ek bjóða þer tvá kosti — at vera drepinn; hinn er

„annarr, at ek skal einn skera ok skapa okkar á „milli.“ Sámr kvaðst heldr kjósa at lifa; en kvaðst þó hyggja, at hvárrtveggi myndi harðr. Hrafnkell kvað hann svá ætla mega; „Því at ver „eigum þer þat at launa; ok skyldi ek hálfu betr „við þik gjöra, ef þess væri vert. Þú skalt fara „brant af Aðalbóli ofan til Leikskála, ok sezt þar „í bú þitt. Skaltu hafa með þer andæfi þau, er „Eyvindr hefir átt. Þú skalt eigi fleira hafa heð-„an í *femunum*, utan þat, sem þú hafðir hingat; „þat skaltu í brant hafa. Ek vil taka við goð-„orði mínu, svá ok við búi ok staðfestu; se ek, at „mikill ávöxtur hefir orðit af góðsi mínu, ok skaltu „eigi þess njóta. Fyrir Eyvind, bróður þinn, „skulu engar bætr koma, fyrir því at þú mæltir „herfiliga eptir hinn fyrra frænda þinn; ok hafi „þer þó œrnar bætr eptir Einar frænda yðvarn, „þar er þú hefir haft ríki ok fe sex vetr; en ei-„gi þykkir mer meira vert dráp Eyvindar ok „manna hans, enn meiðsl við mik ok menn mína. „Þú gjörðir mik sveitarrækan ok sekan. En ek „vil mer líka láta, at þú sitir á Leikskálum; ok „man þat duga, ef þú ofsar þik eigi þer til vansa. „Minn undirmaðr skaltu vera, meðan vit lifum „báðir. Máttu ok til þess ætla, at þú mant því „verr fara, sem vit eigumst fleira íllt við.“ Sámr

ferr nú braut með lið sitt, ofan til Leikskála, ok sezt þar í bú sitt. Nú skipar Hrafnkell búit á Aðalbóli sínum mönnum. Þóri, son sinn, setr hann á Hrafnkelsstaði. Hefir nú goðorð yfir öllum sveitum. Ásbjörn var með föður sínum; því at hann var ungr. Sámr sat á Leikskálum þenna vetr. Hann var hljóðr ok fáskiptinn. Fundu margir þat, at hann undi lítt við sinn hlut. En um vetrinn, er daga lengði, fór Sámr við annan mann, ok hafði þrjá hesta, yfir brú, ok þaðan yfir Möðrudalsheiði, ok svá yfir Jökulsá á ferju, svá til Mývatns, þaðan yfir Fljótsheiði ok Ljósavatnsskarð, ok letti eigi fyrr, enn hann kom vestr í Þorskafjörð; er þar tekit vel við hánum. Þá var Þorkell nýkominn út ur för. Hann hafði verit utan fjóra vetr. Sámr var þar viku, ok hvíldi sik. Síðan segir hann þeim viðskipti þeirra Hrafnkels, ok biðr þá bræðr ásjá ok liðsinnis enn sem fyrr. Þorgeirr hafði enn sem fyrr svar fyrir þeim bræðrum; kvaðst sitja í fjarlægð: „Er „langt á milli vár. Þóttumst ver allvel í hendr „þer búa, áðr ver gengum frá, svá at þer hefði „hægt verit at halda. Hefir þat farit eptir því, „sem ek ætlaða, þá er þú gaft Hrafnkeli líf, at „þess myndir þú mest iðrast; fýstum vit þik, at „þú skyldir Hrafnkel af lífi taka; en þú vildir „ráða. Er þat nú auðsét, hverr vizkumunr ykkarr

„hefir orðit, er hann let þik sitja í friði, ok leit-„aði þar fyrst á, er hann gat þann af ráðit, er „hánum þótti þer vera meiri maðr. Megum vit „eigi hafa okkr til falls gæfuleysi þitt þetta. Er „okkr ok eigi svá mikil fýsn á at deila við „Hrafnkel, at vit nennim at leggja þar við virð-„ing okkra optar. En bjóða viljum vit þer hing-„at með skuldalið þitt allt undir okkarn áraburð, „ef þer þykkir her skaprannarminna, enn í nánd „Hrafnkeli.“ Sámr kveðst eigi því nenna, sagð-ist vilja heim aptr, ok bað þá skipta hestum við sik. Var þat þegar til reiðu. Þeir brœðr vildu gefa Sámi góðar gjafir; en hann vildi eing-ar þiggja, ok sagði þá vera litla í skapi. Reið Sámr heim við svá búit til Leikskála, ok bjó þar til elli; fekk hann aldreigi uppreisn á móti Hrafn-keli, á meðan hann lifði. En Hrafnkell sat í búi sínu, ok helt virðingu sinni. Hann varð sóttdauðr, ok er haugr hans í Hrafnkelsdal, út frá Aðalbóli; var lagit í haug hjá hánum mikit fe, herklæði hans öll ok spjót hans hit góða. Synir hans tóku við mannaforráði. Þórir bjó á Hrafn-kelsstöðum, en Ásbjörn á Aðalbóli. Báðir áttu þeir goðorðit saman, ok þóttu miklir menn fyrir ser. Ok lýkr her frá Hrafnkeli at segja.

# Skinnblað

ur

## sögunni af Hrafnkeli freysgoða.

Fremri blaðsíðan.

1*). ætta þ(at)[1] e(cki) e(n) ek sellda þ(at) ý h(e)ud(r). Þ(or)g(eir)i b(ro)d(ur)[2] mun-(num) m(anna) for rad mitt ad(ur) e(n)[3]ek f(or)[4] ut(an)

2*). sid(an) hef(ir) ek e(cki) ([5] v(it) tek(it) f(yrir) þ(vi) at m(er) þik(ir) v(e)l ko(m)it med-

*) Þ. e. fyrsta lína, önnur lína, o. s. fr.

1) Þat, sem bundit er á skinnblaðinu, eðr ekki stendr í línunni, þá er her sett millum sviga.

2) Þat band, er líkist þessu merki ∞ (i fyrstu = oz), er her hvarvetna prentað (ur), en z er her prentað (r).

3) Her er hvergi sett (nn) fyrir strik yfir línunni á skbl., heldr (n).

4) Á skbl. er einum legg ofankit fyrir aptan (or).

5) Á skbl. allvíða verðr eigi ur skorit, hvárt þar se ritað v eðr u.

(au) h(aun) v(ar)d veit(ir). g(au)gı þ(ıd) á [6]) fu(u)d ha(u)s hı

3. d(ıt) h(aun) á sı(a) h(aun) e(r) skörn(u)gʀ y skapı (ok) d(re)ıng(r) god(r) (ok) ý alla st(ad)ı u(e)l m(enn)t(ur) vng(r) m(adr )(ok) met

4. nad(ar) gı(ar)n. e(rv) slık(ır) m(euŋ) vænzt-(ır) t(ıl) at neıta ýck(ur) ([7]slıdsın(n)e S.[8]) s. af h(ouu)m myn(um) v(ıt) ek

5. kı fa ne(m)a þv s(er)t ý flutnı(n)gı m(ed) ock(ur). þ(or)k(ell). s. þ(vı) m(au) ek heıta at v(er)a helld(ur) m(ed) ýck

6. e(n) motı m(ed) þ(vı) at m(er) þık(ır) æ(rí)n návd(z)syn [9]) t(ıl) at mæla ept(ır) nask(yl)d(au) m(aun) f(ar)ı þ(ıt) uv

7. f(yrır) t(ıl) bvd(ar)ıu(n)aʀ (ok) g(au)g-ıt ýn(n) ý bvdı(u)a e(r) m(aun) folk y svef(n)ı þ(ıd) mvn(ud) sı(a) hv(ar) st(aü)da ýn(ar)

---

[6]) Á skbl. er tvöfalt a hvarvetna þar sem her er prentað á.

([7] Þann veg á skbl.

[8]) Her er skammstafat á öllum sömu stöðum, ok á skbl.

[9]) z er hvarvetna fyrir ofan línuna i þessu orði á skbl.

8. n(in) þv(er)a budı(n)a tvö hvd föt (ok) neıs ek up(p) or öd(ru) e(n) y öd(ru) hvıl-(ır) þ(or)geır b(ro)d(ır) mın(n)

9. h(ann) hef(ır) haft kveısv mykla y fætın(um) sıd(an) h(ann) ko(m) á þı(n)g(ıt) (ok) þ(vı) hef(ır) h(ann) lıt(ıd) sof(ıt) w(m)

10. næt(r) e(n) nv sp(ra)ek fot(rı)n y nott (ok) e(r) oR kveısv naglın(n) e(n) nv hef(ır) h(ann) sofn(ad) sı

11. d(an) (ok) hef(ır) nett(an) fotı(n) vt v(n)d-(an) fötvn(um) f(ra)m á fota fıölı(n)a sak(ır) of(ur) hıta e(r)

12. á e(r) á(er)[10] fætın(um). g(a)ngı sa lın(n) ga(m)lı m(adr) f(yrır) (ok) s(vo) yn(n)ar ept(ır) budı(n)e m(er) sýn(ız)t h(ann) mog

13. hnýmd(ur) bædı at sýn (ok) ellı þa(er) þu m(adr) seg(ır) Þ(or) k(ell) kem(ur) at hvdfat-ı(n)v sk(al)tv nas

14. mı(o)g (ok) fall á fota fıölı(n)a (ok) tak y tana þa(er) u(m) e(r) bv(n)d(ıt) (ok) lınyek at þ(er) (ok) v

15. hv(er)sv h(ann) v(er)d(ur) v(ıt) S. m. heıl nad-(ur) m(un)tv öek(ur) v(er)a e(n) e(ekı) sýn(ız)t m(er) þ(et)ta nadl(ıg)t þ(or)k(ell) sv(ar

---

10) Þann veg á skbl.

16. an(n)at hv(or)t v(er)dı þ(ıt) at g(er)a at haf(a) þ(at) se(m) ek leg(g) t(ıl) e(dr) leıta eckı nada t(ıl) nu(n). S. m(æl)t

17. (ok) seg(ır) s(vo) sk(al) g(er)a se(m) h(ann) gef(ur) nad t(ıl). þ(or)k(ell) kv(ez)t[11] m(un)du g(an)ga sıd(ar) þ(vıa)t ek bıd m(anna) mın(n)a (ok)

18. nv g(e)ngv þ(eı)r S. (ok) þ(or)b(ıorn) (ok) ko(m)a y bvdı(n)a svofu þ(ar) m(enn) alle(r) þ(eı)r sıa b(ra)tt hv(ar) þ(or)geı

19. la. þ(or)b(ıorn) k(ar)l geck f(yrır) (ok) f(or) mıog nasandı e(n) e(r) h(ann) ko(m) at hudfatı(n)u þa fell h(ann) á fo

20. fıölma (ok) þ(rı)f(ur) y tana þa(er) v(an) matta v(ar) (ok) hnýek(ır) at s(er). e(n) þ(or)g(eır) vaekn(ar) v(ıt) (ok) hlıo

21. vp y hud fatı(n)u (ok) sp(ur)dı hv(er) þ(ar) fæ(rı) s(vo) h(ra)pall(ı)ga at hlýpı á fæt(r) m(önnum) e(r) ad(ur)

22. v(an) matta e(n) þ(eı)m S. v(ar)d eckı at ordı þa sn(ar)adı þ(or)k(ell) yn y bvdı(n)a (ok) m(æ)l(t)ı tı

23. þ(or)g. b(ro)d(ur) sı(n)s u(er) e(ckı) s(vo) brad(ur) ne od(ur) f(ræ)ndı v(m) þ(ef)ta

---

11) Eðr kv(az)t.

þ(via)t þ(ie) mv(n) eeki saka e(n) m(ör)g-
u(m)

24. azt v(er) e(n) uill (ok) v(er)dr þ(at) m(ör)g(vm) at þa fa e(eki) allzs gæt yaf(n) v(e)l e(r) h(oun)m e(r) mik(it) y sk

25. pi e(n) þ(at) e(r) v(or)kv(n) f(ræ)ndi at þ(er) se sar fot(ur) þin(n) e(r) mik(it) mei(n) hef(ir) ý v(er)it m(un)tv þ(e)s

26. mest a þ(er) k(eu)na nu ma (ok) þ(at) v(er)a at gömlv(m) m(anni) se e(eki) osáʀ-ari son(ar)davdi sin(n) e(n)

27. öngv(ar) bæt(ur) (ok) sk(or)ti hvevit(n)a sialf(ur) m(an) h(ann) þ(es)s giörst ken(n)a á s(er) (ok) e(r) þ(at) at von(um)

28. sa m(adr) gæti e(eki) allz v(e)l e(r) mik-(it) býʀ y skapi þ(or)g. s. ecki hugda ek at h(ann) mæti

29. þ(es)sa ku(n)a þ(via)t e(eki) d(ra)p ek s(on) h(an)s (ok) ma h(ann) af þ(vi) e(eki) á m(er) þ(es)sv hef(n)a. e(eki) uilldi h(ann) á

30. þ(es)sv hef(n)a seg(ir) þ(or)k(ell) e(n) f(or) h(ann) at þ(er) h(ar)d(ar)a e(n) h(ann) villdi (ok) gallt h(ann) oskyg(n) leika si(n

31. væ(n)ti s(er) af þ(er) nöck(ur)s t(ra)vst(z)

e(r) þ(at) nn d(re)ıngskap(ur) at neıt(a) gömlv(m) m(anni) (ok) þ(ur)pt

32. e(r) h(onn)ın þ(et)ta navd(z)sŷn e(n) e(ekı) seılı(n)g þo at h(ann) mælı ept(ır) s(on) sın(n). e(n) nv g(a)ng

33. I(ır) höfdı(n)gı(ar) vnd(an) hdveızslv u(ıt) þ(es)sa m(enn) (ok) syna y þ(vı) mıkı(n) od(re)ıngska

Síðari blaðsíðan.

1. þa m se malv eıgu skıpta
2. ([12] ** ad(r) lvkı (ok) se ek þ(ar) f(ar)a eın(n) veg öllv(m) get ek af þ(vı) flesta ofvsa ****
3. se(m) eı(n)gı navd(z)sy(n)[13] d(re)gʀ t(ıl). þ(or)k(ell) s. þ(at) ma v(er)a at s(vo) f(ær)ı m(er) at ef ek væ(ra) höfdı(n)gı
4. at m(er) þættı yllt at deıla v(ıt) h(rafn)-k(el) e(n) e(ekı) sŷn(ız)t m(er) s(vo) f(yrır) þ(vıa)t m(er) þætı v(ıt) þ(an)n bezst
5. at eıga e(r) all(er) h(re)ekıazt f(yrır) ad-(ur) (ok) þættı m(er) mıkıt vaxa nu(n) v(ır)dı(n)g. e(dr) þ(es)s h
6. fdı(n)gı(a) e(r) á h(rafn)k(el) gætı nöck-

([12] Stjörnurnar eru settar í stað þeirra orða, er svá eru úskír, at eigi verða lesin.
[13]) *av* eru her i einu lagi á skbl.

(nr)a vık no(ıd) e(n) mı(n)kazt eckı þo at m(er) fæ(rı) se(m) öd(rn)m

7. f(yrır) þ(vıa)t [14] ma m(er) þ(at) se(m) ýf(ır) m(ar)g(an) g(en)gn hef(ır) sa (ok) yafn-(an) e(r) hætt(ır) se ek seg(ır) þ(or)-g(eır) h

8. su þ(er) e(r) gef(ıt) at þv vıllt veıta þ(es)s-v(m) m(önnvm). nv mv(n) ek seh(a) þ(er) y h(e)nd(ur) god

9. ord mıtt (ok) m(anna) f(or)nad (ok) haf þv þ(at) se(m) ek hef(ır) haft ad(r) e(n) þ(ad)an af höfv(m)

10. v(ıt) yöfn(nd) af bad(ır) (ok) veıttv þa þ(eım) e(r) þn vıllt sv(o) sýn(ız)t m(er) seg(ır) þ(or)k(ell) se(m) þa

11. mv(n)e godord v(or)t bezt ko(m)ıt e(r) þv haf(ır) se(m) leıngzt an(n) ek öngv(m) sv(o)

12. n(e)l se(m) þ(er) at haf(a) þ(vıa)t [15] hef-(ır) m(ar)ga hlvtı t(ıl) men(n)t(ar) w(m) f(ra)m alla os

13. b(ræ)d(ur). e(n) ek onadı(n) hv(ád) e(r) ek vıl af m(er) g(er)a at b(ra)gdı. e(n) þv neızst f(ræ)ndı at

---

14) Þann veg á skbl. her ok viðar, sem her má sjá.

15) þn man vera ur fallit.

14. ek hefı t(ıl) fars[16]) hlvtazt sıd(an) ek ko(m). t(ıl) ýsl(a)nd(z)s ma ek nv sı(a) hu(ad) mı(n) R

15. e(ru) nv hefı(ee)[17]) flutt se(m) ek m(an) at sın(n)e. ka(n)n n(er)a at þ(or)k(ell) lepp(ur) ko(m)ı þ(ar) at h(an

16. ord v(er)dı meı(rı) metı(n). þ(or)g(eır) s. se ek nu hn(er)sn h(or)f(ır) f(ræ)ndı at þ(er) mıslık(ar) en

17. ma þ(at) e(ela) vıta (ok) mn(n)v v(ıt) fylgı(a) þ(és)sv(m) m(önnvm) hv(er)sn se(m) f(er) ef þu vıllt þ(or)k(ell)

18. sa eı(n)s bıd ek at m(er) þık(ır) bet(r) at veıtt se. t(ıl) hv(er)s þıkıazt þ(es)s(ır) m(enn) f

19. seg(ır) þ(or)g(eır) s(vo) at f(ra)m kvæ(m)d v(er)dı at þ(eır)ra mah. s(vo) e(r) se(m) ek sagda ý dag at

20. stýrk þ(nr)fv(m) n(ıt) af höfdı(n)gı(um) en mala flnttnı(n)g á ek v(n)d(ır) m(er). þ(or)g(eır) kv(ad) *

21. ** þa gott at duga (ok) e(r) nv þ(at) t(ıl) at bna mal t(ıl) se(m) nettl(ı)gazt e(n) m(er) þık(ır)

---

16) Þann veg á skbl.

17) Eðr hefı(e).

22. se(m) þ(or)k(ell) vıle at þ(ıd) vıt(ıd) h(an)s ad(ur) dom(ar) f(ar)a vt m(unu) þ(ıt) þa haf(a) an(n)at hu(or)t

23. yck(ra) þ(ra) nöck(ur)a hvg(an). e(dr) læg-ın(n)g e(n) meı(rı) e(n) ad(ur) (ok) hréllıng[18] (ok) skapna

24. n. g(a)ng(ıd) nv heı(m) (ok) v(er)ıt kat(ır) af þ(vı) at þ(ess) m(unv) þ(ıd) v(ıt) þ(r)ſa ef þ(ıt) skulut deıla

25. h(ra)fk(el)[19] at þ(ıt) b(er)ıt ẏck(r) v(e)l vp(p) v(m) h(rı)d e(n) segı þ(ıt) öngv(ın) m(annı) at u(ıt) höf(vm) lıduer

26. Iv heıt(ıd) yck(ur)., þa g(e)ngv þ(eı)r heı(m) t(ıl) buda(r) sın(ar) v(oro) þa [20] ölteít(ır) m(enn) vndrvd

27. zt þ(e)tta alle(r) ([21] þ(vı) þ(eı)r hefdı s(vo) skıot skapskıptı tek(ıt) þ(ar) se(m) þ(eı)r u(oro) oglad(er) e(r

28. f(oro) heı(m)an. nv sıtıa þ(eı)r þ(ar) t(ıl) e(r) dom(ar) f(ar)a ut þa kved(ur) sam(ur) vp(p) m(enn) sı(n)a (ok)

29. gʀ t(ıl) lögb(er)gs v(ar) þ(ar) dom(ur)

---

18) Þann veg á skbl. (með depil yfir e).

19) Þann veg á skbl.

20) sem virðist vera ur fallit.

21) Þann veg á skbl.

sett(ur). S. geck þa dı(ar)fl(ı)ga at do(m)m-(um). h(ann) hef(ur)

30. g(ar) vp vott nef(n)v (ok) sottı mal sıtt at nett(um) l(a)nd(z)slög(um) á h(e)ndr h(rafn)-k(elı) go

31. mysk(u)nar lavst m(ed) skörvgl(ı)gv(m) flvtm(n)gı þ(ess)v næst ko(m)a þ(eı)r þıost-(ar)s. ss

32. mykla sveıt m(anna) all(ır) m(enn) vest(an) af l(a)ndı veıttv þ(eım) lıd (ok) syndı(z)t þ(at) at

33. st(ar)s ss v(oro) m(enn) vı(n)sæl(ır) S. sottı malıt ý do(m) þ(a)ng(ad) t(ıl) e(r) h(rafn)k(elı) v(ar) bod(ıt) [22]) u(ar)nar *

[22]) til man vera ur fallit.

